WIKIPEDIA

# Kasakska

**Kasakska** (қазақ тілі/қазақша/qazaq tili) er tungumál Kasakstans. 11 milljón manns tala hana sem móðurmál. Hún er tyrkískt tungumál. Kasakska er töluð í Kasakstan og í Mið-Asíu. Önnur lönd þar sem kasakska er töluð eru Mongólía, Úsbekistan og Kirgistan, og minnihlutahópar í Þýskalandi, Bandaríkjunum og Tyrklandi. Kasakska er mjög svipuð kirgísku, úsbeksku, tadjikisku, túrkmensku, asersku og tyrknesku. Greina má mörg sameiginleg orð og fólk sem kann kasöksku á auðvelt með að lesa þessi mál.

| Kasakska<br>*қазақша* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Kasakstan, Mongólía, Kirgistan, Úsbekistan, Tyrkland, Tadsjikistan, Kína, Afganistan, Túrkmenistan, Þýskaland og Bandaríkin |
| **Heimshluti** | Mið-Asía |
| **Fjöldi málhafa** | 11,5 milljónir |
| **Sæti** | 93 |
| **Ætt** | Tyrkneskt<br>Vesturtyrkneskt<br>Aral-kaspískt<br>**Kasakska** |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Kasakstan |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | kz |
| **ISO 639-2** | kaz |
| **SIL** | KAZ |
| **ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode. | |

## Efnisyfirlit



## Stafróf

Kasakska er skrifuð með breyttri útgáfu kýrillíska stafrófsins, en var áður rituð með arabíska stafrófinu.

Aa Әә Бб Вв Гг Дд Ғғ Ее Ёё Жж Зз Ии Йй Кк Ққ Лл Мм Нн Ңң Оо Өө Пп Рр Сс Тт Уу Ұұ Үү Фф Хх Һһ Цц Чч Шш Щщ (Ъъ) Ыы (Ьь) Іі Ээ Юю Яя

## Nokkrar algengar setningar

- **Сәлем** (Sälem) - Halló
- **Хал қалай?** (Xal qalay) - Hvað segirðu?
- **Жақсы** (Jaqsı) - Allt fínt.
- **Рахмет** (Raxmet) - Takk.
- **Ия** (İä) - Já
- **Жоқ** (Joq) - Nei
- **Сіздің атыңыз кім?** (Sizdin atıñız kim) - Hvað heitirðu?
- **Менің атым...** (Mening atım) - Ég heiti...
- **Сіздің ұлтыңыз кім?** (Sizdin ultıngız kim?) - Hvaðan ertu?
- **Мен Исландияданмын** (Men Islandiyadanmın) - Ég er Íslendingur

- **Сізді көргеніме қуаныштымын** (Sizdi korgenime kwanıştımın) - Gaman að hitta þig
- **Сіз қайда тұрасыз?** (Siz qayda turasız) - Hvar býrðu?
- **Мен Рейкявикте тұрамын** (Men Reyqyaviqte turamın) - Ég bý í Reykjavík
- **Хош келдің** (Xoş keldin) - Velkomin/n
- **Қайырлы таң** (Qayırlı tañ) - Góðan morgun
- **Қайырлы күн** (Qayırlı kün) - Góðan daginn
- **Қайырлы кеш** (Qayırlı kéş) - Gott kvöld
- **Не істеп жатырсың?** (Ne istep jatırsıñ?) - Hvað ertu að gera?
- **Ештеңе** (Eşteñe) - Ekkert
- **Сау бол** (Saw bol) - Bless!

# Fornöfn

- **Мен** (Men) - Ég
- **Сен, Сіз** (Sen, Siz) - Þú
- **Ол** (Ol) - Hann, hún, það
- **Біз** (Biz) - Við
- **Сендер, Сіздер** (Sender, sizder) - Þið
- **Олар** (Olar) - Þeir, þær, þau

# Tengill

- Lærðu Kasöksku (https://is.wikibooks.org/wiki/Kasakska)

Sótt frá „https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Kasakska&oldid=1613828“

**Þessari síðu var síðast breytt 6. nóvember 2018, klukkan 14:27.**

Textinn er gefinn út samkvæmt Creative Commons Tilvísun-DeilaEins leyfi. Sjá nánar í notkunarskilmálum.